


III. Winnipeg, Man. Nr. 11.

# GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

---

Framh.

Þá höldum vér áfram í fyrirlestrinum — þessum makalausa bautasteini séra Friðriks — og rekum oss þá næst á, að á bls. 55 er Davíð talinn fulltrúi Guðs. Ojæja, hann sýnir, hvaða boðskap hann hafði að flytja frá guði, eins og þegar hann hertók Rabba og aðrar borgir Ammonssona, eða þegar hann myrti Úria til þess að ná í Batsebu konu hans. En svo á bls. 56 segir höf., að Davíð hafi vitað vel, að þær bænir sem hatrið stílar, væru í munni drottins smurða andstygð fyrir guði. Þegar nú Davíð vissi, að guði voru andstyggilegar aðrar eins bænir og hann oft flutti fram fyrir guð, t. d. í 109. sálmi, sem vér komum með fyrir nokkru, því í ósköpunum var hann þá að biðja guð? Var Davíð að biðja guð í þeim tilgangi, að verða sjálfur andstyggilegur í augum guðs? Nei, það er ekki gott að eiga við það; það er ekki auðvelt að réttlæta Davíð, því að menn lenda þá óhjákvæmilega i þær ógöngur og flækjur, að úr því verður að eins endileysa og bull, eins og þetta. Svo fer nú höf. að líkja þeim saman, Davíð og Kristi, en þar er þó ólíkum saman að jafna. Höf. fyrirlestursins ógnar Davíð, hvað hann skuli vera hákarlalegur, og reynir svo að bæta fyrir honum með því, að sýna fram á, að Kristur hafi verið grimmur líka, en með því að hvítþvo Davíð, svertir hann Krist. Þegar Davíð lyftist upp, sígur Kristur niður, og ég er alveg óviss um, að Kristur mundi hafa þakkað séra Friðrik fyrir þennan samanburð.

En einmitt með þessum samanburði á Davíð og Kristi sýnir presturinn veikleika sannana sinna, — eyðileggur þær í sömu andránni og hann ber þær fram. Vér skulum nú setja oss í spor þeirra hinna rétttrúuðu og hugsa oss guðinn Krist, óendanlega, ósegjanlega kærleiksríkan, sem elskar svo mannkynið, að hann leggur lífið í sölurnar fyrir það, sem jafnvel ber allar þeirra syndir upp á krossinn. Þó að þær væru rauðar sem blóð, þá var þó kærleikur hans svo mikill, að þeirra gætti ekki, hann þvoði þær, svo að þær urðu hvítar sem snjór, hurfu sem reykur fyrir vindblæ eða mjöll fyrir sólarhita. En — nú fer þessi guð að taka í annan streng; hann þrumar yfir Faríseum: "Þér höggormar, þér nöðrukyn, hvernig getið þér umflúið helvítis dóm?" Um borgirnar Korazin og Betsaida segir hann: "Bærilegri munu verða kjör Týrusar og Sídonar á degi dómsins en ykkar, — og þú Kapernaum. sem mænir við himinn, þér mun til helvítis niðursökt verða." "Þér eruð af föðurnum fjandanum og girndum yðar föður viljið þér hlýðnast," Og svo hið seinasta sem vér allir þekkjum: "Farið frá mér bölvaðir í þann eilífa eld, sem búinn er djöflunum og hans árum." — Þetta á að sanna, að Davíð gamli hafi verið guðsmaður mesti, en þetta einmitt sannar það, sem kyrkjan heldur jafnfast í og víti, því að hvorttveggja hangir á óleysanlegri keðju. Það sannar það, sem þeim er sárast að missa, það sannar það, að Kristur hafi *ekki verið guð*. Getur nokkur hugsað sér, að guð færi að tala svona eða hugsa svona? Að guð, hinn alfullkomni kærleikur, færi að hafa þvílík orð, færi að ljá rúm öðrum eins hugsunum?

En það er annað, sem athugavert er við þetta. Með tilvitnunum þessum bendir presturinn ekki einungis á tilfinningar og lundarlag Krists, heldur einnig á trú hans. Þar sem hann lætur Krist segja, "að Kapernaum muni til helvítis niðursökt verða," þá vekur það mann til þess að hugsa á þessa leið: trúði þá Kristur virkilega á helvíti? Vér getum best trúað því, að margur maðurinn hafi ekki lagt fyrir sig þá spurningu, fyr en séra Fr. vakti þá til þess, en um leið fara menn að hugsa þetta betur út í æsar: hverju trúði þá Kristur? Það væri fróðlegt að vita það.

Vér sjáum þarna að hann trúði á Víti, — já, á eilíft óendanlegt víti, og þeir sem vilja vera rétttrúaðir og fylgja orðum hans eins og hin heilögu rit þeirra skrá þau, þeir geta ekki undan því komist að trúa eins, þeir verða annaðhvort að trúa á eilíft, óendanlegt víti, á eilífan, því nær almáttugan djöful, sem guð getur ekki sigrað, eða þá að afneita Kristi. Þeir hljóta að trúa því, að meginhlutinn af

vinunum, sem þeir elska, ástvinunum þeirra kærustu, börnunum elskulegu, fari í hið eilífa bál og kveljist þar og veini um alla eilífð! gnísti tönnum af þessum djöfullegu kvölum, því að "þeirra ormur deyr ekki og þeirra eldur slöknar ekki." og "mjór er sá vegur sem til lífsins liggur, og fáir þeir, sem hann rata." Þeir verða að trúa þessu, eða að öðrum kosti að afneita Kristi. Það er enginn millivegur til. Klerkar reyna vanalega að breiða yfir þetta með allra handa kattarklóri, því að þeir eru hræddir um, að alþýðan vakni, og fari þá að hugsa.

Vér sjáum nú hér af eigin framburði prestsins, varnarmanni hinnar lútersku kyrkju, að Kristur hefir á helvíti trúað. En hvað var það fleira sem hann trúði? Vér skulum rekja út í æsar hugsunina, sem klerkurinn benti oss á.

Vér sjáum þá (Lúk. 17, 29) að Kristur segir: "En á þeim tíma þegar Lot fór út af Sódóma, rigndi eldi og brennisteini af himni, sem eyðilagði þá alla," og rétt á undan segir hann: "Þeir átu og drukku, tóku sér konur og giftust alt til þess dags, er Nói fór inn í örkina og flóðið kom, sem eyðilagði þá alla." Að hugsa sér það, að guðinn Kristur skyldi ekki vita betur, eða að guð-maðurinn Kristur skyldi trúa því, að eldi hafi rignt af himni og brennisteini þegar Sódóma eyðilagðist! Nú var því vitanlega alveg eins varið með Sódóma eins og með brunahraunin og eldgosin á Íslandi. En enginn einasti Íslendingur mundi nokkurn tíma trúa því, að sá eldur hafi af himnum komið, eða að brennisteinninn í Kröflunámum við Mývatn sé regn af himni.

Eða þá flóðið hans Nóa. Þeir eru víst harla fáir hinir lútersku, sem trúa því. Fyrirlestur vor um það (í öðrum árgangi Dagsbr.) stendur alveg óhrakinn enn, og hefir hann þó staðið í Dagsbrún og verið útgefinn sérstaklega, en það er ekki búið að hreifa eða hrekja einn einasta staf í honum enn þá, og bíður líklega fyrst um sinn.

Þá sér maður það, á Matt. 12, 40, að Kristur trúði því, (eins og sumir aðrir!!) að Jónas gamli hefði verið í kviði hval-fiskjarins í þrjá daga og þrjár nætur. En er ekki þetta og annað eins að kasta öllu viti og skynsemi og gera sig að dýrum í stað manna? Hvað eru þeir margir lútersku mennirnir sem trúa þessu. Oss getur ekki annað en sárnað að vita til þess, að nokkur landi vor skuli vera svo mikill andlegur aumingi, að gleypa þetta og annað eins,

Það getur verið að vér minnumst á hvalsöguna áður en langt um líður, og viljum vér því ekki fara fleiri orðum um þetta.

Þetta, að Kristur trúi á helvíti, á flóðið og Nóasöguna, á brenni-

steinsrigningar, á eldrigninger, á söguna um Jónas og hvalinn, sýnir það, að Kristur getur ekki hafa verið guð, og þá er um leið öll sú bygging, sem kyrkjan hefir bygt á honum sem guði fallin. Þetta sýnir það, að hann hefir verið sannur gyðingur, alinn upp í gyðinglegum fræðum, með gyðinglegum hugmyndum. Það er að segja, ef að maður tekur þessar frásögur postulanna sem sannar. En vér trúum þeim ekki öllum. Af því að Kristur var sannur gyðingur, trúi ég því að hann hafi trúað sögunni um Nóa, um Sódóma og Jónas. Hann hefir kanske hálf-trúað á víti, og hafi honum sárnað, hefir hann kannske gleymt sér svo, að hann hafi vistað einhverja þar, það getur góða menn hent; en að hann hafi sagt dómsorðin þungu: "Farið frá mér bölvaðir í þann eilífa eld, sem búinn er djöflinum og hans árum" — að hann hafi sagt þau, óæstur, með fullu valdi yfir skapsmunum sínum, því getum vér ekki trúað, oss er ómögulegt að trúa því um jafn kærleiksríkan mann og Kristur var, mann, sem aldrei gat aumt séð, sem læknaði sjúka, líknaði nauðstöddum, — mann, sem deyjandi bað fyrir þeim, sem kvöldu hann og píndu. Oss kemur til hugar að postularnir ranghermi þar, þeir segi þar ekki satt. Þegar menn líta á málavöxtu, þá er heldur ekki svo gott, að tilfæra orðrétt orð manns eftir ein 50 til 60 ár. Ég spyr: getur nokkur lúterskur maður ábyrgst, að koma orðrétt með alt, sem hann hefir talað einhvern vissan dag fyrir einum 50—60 árum, eða einhverja ræðu orðrétta, sem hann hefir haldið þá? En þetta var það, sem postularnir gerðu, þeir skrifuðu upp það, sem Kristur gerði og sagði meira en mannsaldri eftir dauða hans.

Það sem því höfundur fyrirlestursins vinnur með þessum samanburði Davíðs við Krist, er þá það, að hann dregur Krist fram á sjónarsviðið til þess, að gera hann svartan, *hann þvær óhreinindin af Davíð með Kristi,* en með því, að gera Krist svartan eyðileggur hann alt, sem hann hefir verið að segja, því að, þó að alt, sem hann hefir framborið, hefði verið gullvægt og satt, þá er þó þetta eina, að sverta höfuðpersónuna Krist nóg til þess, að gera fyrirlesturinn verri en þýðingarlausan. Framhald.



# KENNINGIN UM GUÐDÓM KRISTS.

(Sannanir með og móti. Sannanir með eru auðkendar með rómverskum tölum ; en mótsannanir með venjulegum tölum).

VI. Tómas sagði við Jesú (Jóh. 20, 28) : "Drottinn minn og guð minn." Þegar nú Kristur neitar því ekki við Tómas, að hann sé guð, og neitar því heldur ekki við Gyðinga, þegar þeir kalla hann guð, þá er það augljóst, að Kristur kannast við að hann sé guð.

6. En sú framsetning! Þeir vita það vel, að Kristur afsakar sig við Gyðinga og segist ekki vera guðs sonur, segir auk þess, að með orðinu "guð" meini ritningin mikla menn, þá menn, sem guðs orð sé til talað, og þó leyfa þeir sér að standa fast á þessu. Voru nokkur líkindi til þess, að Kristur færi að reiðast Tómasi, þó að hann líkti honum við þá Móses, Aron, Davið, Samúel og nefndi hann nafninu guð, sem þeir voru nefndir? Þegar Gyðingar seinna fara að bera þetta á hann, að hann hafi liðið það, að menn kölluðu hann guð, þá fer hann og afsakar sig. Hér var þetta í meinleysi gjört, en þar var það gjört í illum tilgangi, hér þurfti Kristur ekkert að skifta sér af því, en þar átti að gera það að dauðasök hans. Og það sem Kristur segir með dauðann fyrir augunum, það ætti þó að vera þess vert, að þeir sem trúa á hann, tækju það gilt; en þá viðurkennir hann einmitt *ekki* að hann sé guð.

VII. Páll postuli segir (Róm. 9, 5), að "Kristur sé yfir öllu, guð blessaður að eilífu."

7. Væri nú hér sagt: guð, blessaður að eilífu, þá væri nokkur ástæða til þess að telja stað þennan sönnun fyrir guðdómi Krists; en nú er engin komma ( , ) á eftir orðinu guð, og verður því guð blessaður hið sama og blessaður af guði.

VIII. Þá segir Páll postuli (Hebr. 1, 8) um soninn: "Þitt hásæti, ó guð, varir um aldur og æfi."

8. Hér virðist nú í fljótu bragði, sem neitendur guðstignar Krísts séu alveg komnir í mát. Hér sé guðdómur Krists tekinn svo skýrt fram, að nú sé ekkert undanfæri annað, en að játa hann. En ef að vér lesum dálítið lengra, þá sjáum vér hvernig að í þessu liggur, því að í næsta vessi fer Páll að útskýra þetta. Hann segir: "þú elskaðir réttindin, þess vegna hefir guð, þinn guð, smurt þig með gleðinnar viðsmjöri fram yfir þína jafningja." Guðdómur Krists er þá, eftir orðum Páls, í því fólginn, að hann er fremri öllum öðrum mönnum. Að segja, að guð faðirinn, upphafið máttarins, sé jafningi manna, það er að niðurlægja guð, það ekki einung-

is eyðileggur guðstign Krists, heldur eyðileggur það sjálfa tign guðdómsins. Skepnan getur aldrei verið hið sama og skaparinn, hún getur aldrei verið jafningi þess sem skóp hana. Þetta sýnir einmitt, að Páll hefir haft hina sömu hugmynd og lagt hina sömu þýðingu í orðið "guð," sem Kristur sjálfur, að það tákni þá menn, sem guðs orð er talað til, eða sem eru innblásnir af guðs anda.

IX. Enn segir Páll (Tit. 1, 3) "skipun guðs, vors frelsara." Og segja klerkar að þetta eigi við guðdóm Krists.

9. Þetta er mjög vafasamt, því að einmitt rétt á undan, í 1.,1., aðgreinir postulinn þá guð og Jesúm Krist. Hann segist vera þjónn guðs og postuli Krists, og í næsta vessi á eftir aðgreinir hann þá enn aftur, og gerir mun á "guði föður" og "dróttni Jesú;" en orðið drottinn vitum vér að þýðir hið sama og herra, en ekki guð.

X. Þá halda klerkar því fram, að ritningin segi, að Kristur hafi verið skaparinn. — Í fyrstu bók Mós, 1. kap er sagt, að guð hafi skapað himin og jörð. En nú segir Jóh. 1, 3, að "allir hlutir séu fyrir það (orðið) gerðir, og án þess sé ekkert til orðið, sem til sé." (Orðið segja þeir að sé sama og Kristur). — Enn segir Jóh., 1, 10, að "heimurinn hafi verið fyrir það (orðið, eða Jesúm Krist) gerður." Og Páll segir (Hebr. 1, 2) "til vor talað fyrir soninn, sem hann setti erfingja allra hluta, fyrir hvern hann og hefir skapað heiminn." Og í Kól. 1, 16, því að "fyrir hann er alt skapað sem er á himni og jörðu." Og svo herða þeir á þessu með því, að koma með staðinn 5. Mós., 6, 4: "Heyr þú, Ísrael! Drottinn vor guð er sá einasti guð."

10. Þessar sannanir klerka eru æði veigalitlar þegar að er gáð Að minsta kosti hafa þær týnt innblæstrinum á leiðinni, er þær voru að breytast og verða íslenzkar, því að fyrst og fremst er það, að orðið "fyrir" getur þýtt: handa, og þá væri það: allur heimurinn var skapaður handa Kristi; nú segjum vér vanalega, að heimurinn hafi skapaður verið handa manninum, handa Jóni og Jónasi, Pétri og Páli. En þar fyrir kemur oss ekki til hugar að leggja þá þýðingu í það, að þeir séu guðir Jón eða Jónas, Pétur eða Páll.

En það er annað við þetta. Að segja að Kristur sé guð, skaparinn, er svo mikil hugsunarvilla, að það gerir alla menn að vitfirringum, sem halda því fram. Ritningín segir, að Kristur hafi fyrst orðið til, þegar heilagur andi yfirskygði Maríu, þá var hann getinn, áður var hann því ekki til. Að segja nú, að sá sem ekki er til, skapi alt sem til er, og þar á meðal sjálfan sig, er svo mikil endileysa, að ef rétt væri, ættu þeir sem fyrst að vera hneptir á vitskertra

hús, sem því halda fram. Það er ekki að vita upp á hverju þeir kunna að taka. Margir skoða þetta sem svo meinlausa vitleysu, að það taki því ekki, það verði að lofa þeim að hringla lausum, meðan þeir geri ekki meiri skaða. En það er að gæta að því, að þeir kunna að fylla ósjálfstæða aumingja þessari guðdómlegu speki sinni, sem þeir kalla, og svo gengur þessi endileysa í ættir mann fram af manni og einlægt verður sonurinn hálfu vitlausari, en faðirinn var. Þetta magnast eins og hvað annað. Það er sjúkdómur, sem of lengi hefir verið leyft að magnast, og gera mennina heimska.

XI. Enn koma þeir með það, er Jesús er látinn segja (Jóh. 5, 18) "að Gyðingar hafi viljað ráða hann af dögum af því hann kallaði guð föður sinn og gerði sig sjálfan guði jafnan."

11, Ef að á að fara að kalla þá alla guði, sem kalla guð föður sinn, þá fara þeir nú að fjölga guðirnir, því að allir kristnir menn kalla guð föður sinn, og heiðingjar kalla oft guð þann, sem þeir trúa á, föður sinn. En engum kemur til hugar að hugsa, að þeir sjálfir séu guðir. En þar sem Kristur á að gera sig jafnan guði, þá þekkjum vér þó allir orð hans: "Faðirinn er mér meiri" (Jóh. 14, 28).

XII. Og svo þetta hjá Jóh. 12, 45: "Sá sem sér mig, hann sér þann er mig sendi."

12. Þessi staður fellur fyrir öðrum: "Enginn maður hefir nokkru sinni guð séð" (Jóh. 1, 18).



# ÓDAUÐLEIKI SÁLARINNAR.

Nú á dögum hallast fjöldi hinna hugsandi manna mest að trúskoðun þeirri, sem byggir trúna á annað líf á sambandi mannlífsins og hins eilífa skapandi anda. Menn halda því fram, að ef að öllu væri lokið við dauðann, þá væri líf mannsins a jörðunni þýðingarlaust, þá væri settur slagbrandur fyrir framfarir mannsandans, þá væri heftur bæði andlegur og siðferðislegur þroski mannsins. Þessvegna getur það ekki verið, að líf mannsins endi við gröfina. Alt mannlífið væri þá að eins hið grimmasta háð. Það væri loku skotið fyrir það, að hver einstakur maður næði þeim andlegum og siðferðislegum þroska, sem líf hans hér bendir á, að hann eigi að ná. Réttlætinu yrði ekki fullnægt. Vér sjáum það svo oft og iðuglega, að menn ganga svo í gröf sína, að þeir verða að liggja undir himinhrópandi ranglæti, og ekkert getur réttlætt þær kvalir, þá sorg, þá

eymd, þá gremju, þá skerandi angist, þau blóðugu tár, sem mannlífið pressar af þeim, nema þeir eigi að fá umbun í öðru lífi, eins og ekkert getur réttlætt það, þegar menn stundum ala aldur sinn að ósekju í svikum og lygi, í kúgun og harðstjórn, spillandi velferð allra sem þeir ná til, eitrandi líf þeirra, kveljandi og pínandi bæði líkama og sál, og eru svo hróðugir og hlæjandi yfir öllu saman ; ekkert getur réttlætt þetta ástand, nema það, að til sé annað líf, þar sem hinn rangláti fái sína hegningu og venjist af sínum vondu og ranglátu vegum.

Svo framarlega, sem því hugmyndin um réttlæti og kærleika sé til í hjörtum vorum, svo framarlega, sem hún er til í einu einasta mannshjarta, þá bendir þessi hin sama hugmynd oss yfir um á landið ókunna, í heiminn andlega, þar sem réttlætið verður fyllra, þar sem gráturinn verður minni, þar sem dygðin verður fullkomnari, ekki einungis fullkomnari í hugmynd sinni heldur betur uppfylt í mannlífinu.

Á þetta bendir hin eilífa ósegjanlega þrá mannlegs anda, þráin eftir meira réttlæti, meiri kærleika, þráin, að elska meira og elska lengur, elska heitara, en mönnum gefst færi á í þessu lífi, þráin, að vera þar með ástvinum sínum, þráin eftir því, að þeir nái rétti sínum, þegar þeim hefir verið misboðið hér og líf þeirra eyðilagt, um lengri eða skemmri tíma. Á þetta bendir enn þráin eftir fegurðinni, sem aldrei verður södd í lífi þessu, þráin eftir sannleikanum, sem einlægt vex meira og meira eftir því. sem augu manna opnast fyrir nýjum sannindum, þráin til hins góða, sem einnig vex einlægt því meira, sem menn leitast við að fullnægja henni. Á það bendir alt þetta hungur sálarinnar, sem einlægt fer vaxandi eftir því, sem maðurinn verður vitrari, betri og fullkomnari.

Væri þetta ekki svo, væri ekki þessi von annars lífs, þá væri ranglæti heims þessa sannarlega blóðugt, öll sú farsæld og ánægja, sem til er í heiminum gæti ekki réttlætt einn tíunda ekki einn hundraðasta, ekki einn þúsundasta hluta af rangindum þeim, böli og mæðu, sem menn verða við að búa, sem heimurinn hefir þegar tekið út, sem hann á eftir að taka út um ókomnar aldir. Saklaus kemur maður inn í heiminn, ósjálfráður, án þess að hafa óskað eftir því, sekur kvalinn og píndur fer hann úr honum. Þetta getur ekkert réttlætt, nema annað líf, nema framhaldandi fullkomnun og þroski í öllu, sem gott er og satt og fagurt og elskulegt, framhaldandi fullkomnun í öllu þessu, fyrir hvern einstakan mann, er það eina, sem getur réttlætt bölið og mæðuna, og tárin og andvörpin í heimi þessum.

# FRAMTÍÐ TRÚBRAGÐANNA.

Eftir Paul Carus.

(Lauslega þýtt úr "Open Court").

Á þessum síðustu og vestu tímum er eins og trúarbrögðin skjálfi á beinunum. Margt af hinum gömlu hugmyndum manna er orðið fúið og rotið, og svo er því kastað, en nýjar hugmyndir koma í stað hinna gömlu, Nýjar hugmyndir um náttúruna, heiminn, jörðina, mannkynið, guðina. Vísindin verða ekki lengur þögguð niður, frelsið er einlægt heimtað af fleirum og fleirum, er setið hafa öldum saman, hneptir undir oki kúgunarinnar, og frelsið verður einlægt meira og meira, veitist einlægt fleirum og fleirum, en hvað verður þá um trúarbrögðin?

Margir hugsa sér, að í framtíðinni muni mannkynið verða trúlaust, trúin fari einlægt minkandi og minkandi, þangað til hún loksins verði engin. En þá blanda þeir saman trú og hjátrú, þeir villast á því, að kalla trú á hégiljur og hindurvitni, trú á kraftaverk og helga dóma, trúarbrögð. Þeir virðast gleyma því, að trúin er í heiminum, að hún hefir byrjað sem trú á alt það, sem maðurinn skildi ekki í, orðið síðan skrípatrú, en svo farið að kasta einni hégiljunni á eftir annari, farið meira og meira að greina sannleika frá lygi, orðið meira og meira andlegri og andlegri. Þeir, sem ætla, að trúin sé ekki þess virði, að mannkynið haldi í hana, þeir dæma trúna eftir skrípamyndum hennar, eftir kyrkjudeildunum, eftir játningunni, eftir hégiljunum og hindurvitnunum, sem menn nú eru að kasta jafnóðum og mennn þroskast svo andlega, að menn verði færir um það. Þessir menn virðast gleyma því, að trúin er andlegur kraftur, en ekki vofa ein, að hún nú er á framrásarskeiði og snýst meira og meira að lögum skynseminnar og náttúrunnar, já getur ekki gengið á móti þeim, því að þá verður hún meiningarlaust bull.

Það, að hjátrúnni og hégiljunum hefir verið blandað saman við trúna, sýnir aðeins það, að þau trúarbrögð þurfa að hreinsast, það þarf að kasta soranum burtu og rýma burtu öllum villum sem mögulegt er.

Vér gætum eins hugsað oss, að komandi kynslóðir verði sálarlausar, eins og að þær verði trúlausar. Hvorugt er hugsanlegt, en eins og vér vonum, að sálir hinna komandi kynslóða verði göfugri, upplýstari, fegurri, eins vonum vér að trúin verði göfugri, fegurri, skynsamari. Því að því nær, sem trúin kemst skynseminni. því sannari er hún.

Þeir, sem ætla, að vaxandi þekking á lögum náttúrunnar muni alveg rýma trúnni burtu, fara vilt í því, að þeir ætla, að það sé hvort öðru gagnstætt trú og náttúrulögmál. Trúin á kraftaverkin fer, hún er þegar dauð, nema hjá þeim, sem fáfróðastir eru, en það hefir aldrei verið sönn trú, það hefir verið hjátrú, sem menn í fávizku sinni hafa ímyndað sér, að væri trú.

Það þarf enga spádómsgáfu, heldur aðeins meðalskynsemi til þess, að sjá það, að eftir eitt eða tvö hundruð ár, þegar uppgötvanir vísindanna, sem nú eru bornar fram á háskólum heimsins, eru orðnar almenningi kunnar, þá verður trúin talin miklu meira virði, en hún jafnvel er talin nú. En hún verður öðruvísi, en trú alþýðu nú á dögum, hún verður göfugri, sannari, kærleiksfyllri og náttúrlegri.

---

## MAX MULLER.

Trú hans á öðru lífi.

Hinn nafnfrægi málfræðingur Max Muller virðist hallast að skoðun þeirri, að sálir manna hafi lifað áður en þær komu í heim þenna. — Honum farast þannig orð :

"Ég hlýt að játa það, að persónulega hefi ég veikleika nokkurn. Ég get ekki hrundið frá mér þeirri skoðun, að sálir þær sem laða oss að sér í þessu lífi, eru einmitt þær hinar sömu sálir, sem vér þektum og elskuðum í öðru lífi á undan þessu, og að sálir þær, sem hrinda oss frá sér — vér vitum ekki hvernig — eru sálir þær, sem oss féll illa við, sem vér höfðum andstygð á í fyrra lífinu.

Vér verðum að gæta þess, að vér vitum ekki hvað sálin var á undan þessu lífi — já jafnvel ekki hvað hún var hin fyrstu ár barnæsku vorrar. En þó trúum vér því, og sú trú er á góðum rökum bygð, að það sem vér köllum sál, hafi verið til frá fæðing vorri. Hvaða ástæðu höfum vér þá til þess, að efast um, að hún hafi verið til fyrir fæðinguna ? Að segja að sálin hafi fyrst byrjað að vera til er hún fæddist, væri hið sama og segja, að hún hætti að vera til er vér dæjum, því að hvað eina, sem byrjun hefir, hlýtur enda að taka. Ef að vér viljum nú reyna að gera ályktanir af líkum, þar sem önnur þekking er oss bönnuð, megum vér þá ekki segja, að sálinni verði eins varið í öðru lífi eins og í þessu, og þegar hún hættir að lifa hér, þá rís hún upp eður lifnar þar, eins og hún lifnaði hér. Þetta er reyndar ekki annað en ályktun, en í þessum heimi vorum hefir hún

fullan rétt til þess að krefjast, að verða tekin til greina, þar sem ekki er hægt að koma við öðrum sönnunum.

En nú vilja sumir spyrja, hvað þetta annað líf eigi að þýða, ef að vér munum ekkert af því, sem fyrir oss hefir komið í þessu lífi? En prófessorinn svarar þeim á þessa leið:

Vér getum sagt það með nokkurnvegin vissu, að sála vor hafi lifnað hér, án þess að muna nokkuð eftir sínu fyrverandi ástandi. Sála vor man jafnvel ekki eftir tilveru sinni hina fyrstu daga hérvistar sinnar á jörðu þessari, en í sjálfri sér ber hún meðvitundina um ódauðleika sinn, og henni er jafnómögulegt að hugsa sér byrjun, sem endir tilveru sinnar, og ef að sálir manna mætast í öðru lífi, eins og þær mættust hér, og elska hver aðra eins og þær elskuðu hér, hvort mundi þá annað líf vera svo mjög ólíkt lífinu hér á jörðunni? Hvort mundi það þá verða illa þolandi eða ekki þess virði, að lifa þar aftur?"

Vér höfum sýnt hér ofurlítið ágrip af skoðunum Max Muller's, ekki fyrir það, að vér föllumst á þær, heldur af því, að maðurinn er frægur sem vísindamaður og vitmaður um heim allan, og mun því mörgum þykja gaman að kynnast hugmyndum hans.



# KONUNGSRÍKIÐ HANS REX LITLA.

[Þýtt úr ensku.]

Orðið Rex er latneskt og þýðir konungur, og af því að sveinn sá, er sagan gerist af, var í vissum skilningi konungur, þá er nafn þetta gefið honum.

Jæja, hann Rex litli átti heima í Bandaríkjunum. Það kann að sýnast undarlegt, að nokkur maður með því nafni skyldi þar vera, það hefir þó verið fremur sjaldgæft, að konungar ættu heima þar. Hann var fimm ára gamall, ekki var nú aldurinn hár, en hann gat verið bæði góður og skemtilegur drengur; en því er nú ver og miður, og það er sárt að þurfa að segja frá því, að stundum var hann líka óþekkur og ekki góður drengur.

Einn góðan sumarmorgun lág eitthvað illa á honum. Hann byrjaði daginn með því, að koma of seint til morgunverðar, sem kom af því, að hann hafði ekki látið skóna sína á réttan stað kvöldið áður, og þurfti svo að leita að þeim alllengi um morguninn. Svo steyfti hann úr mjólkurkönnunni niður í kjöltu sína og þurfti að

hafa fataskifti og fara úr nýju sjómannafötunum sínum. Það þótti honum ákaflega leiðinlegt; hann hljóðaði upp, stappaði í gólfið, og barði með fótunum, svo að fóstra hans ætlaði ekki að geta komið nokkru tauti við hann.

Loks var hann þó farinn að komast í samt lag aftur, en þá kallaði móðir hans á hann úr lestrarstofunni, og bað hann að hlaupa upp í herbergið hennar og sækja handklæði í efstu kommóðuskúffuna. Var hann þá að lesa sögu um konung einn, sem var að leggja af stað til þess, að berjast við óvini sína; vildi hann ekki yfirgefa bókina og sagði því: "Ég vil ekki," og hélt áfram að lesa.

"Góði Rex minn,' sagði móðir hans stillilega, "heyrðir þú að ég var að tala til þín?"

"Ójá."

"Já — en"

"Já, mamma."

"En því ferðu þá ekki?"

"Ég vil ekki fara."

"Það gerir engan mun, Rex! Farðu undir eins, og þegar þú kemur aftur, þá kom þú með söguna sem þú ert að lesa, því að ég þarf að segja þér nokkuð."

Hann fleygði nú bókinni á gólfið svo að small í, og fór upp á loft, en lamdi í tröppurnar með hverju fótmáli. Þegar hann kom ofan aftur, var hann þungbúinn og svartur í framan sem þrumuský, og ætlaði að fleygja handklæðinu í kjöltu móður sinnar, en hún greip þá í hendina á honum og hélt honum föstum.

"Heyrðu mig, litli óþekki drengurinn minn; sýndu mér bókina, sem þú hefir verið að lesa, og segðu mér eitthvað úr sögunni."

Rex varð alveg forviða. Hann hafði búist við því að verða sneyftur.

"Oh! nú sé ég," mælti móðir hans, er hún leit á bókina. "Það er saga af konungi, eins og þú ert sjálfur. Var það hraustur maður?

"Já, mamma, hann var svo hraustur, að hann barðist við óvini sína, og góður var hann líka og hjálpaði æfinlega bágstöddum."

"Langar þig ekki til þess. að vera annar eins konungur, litli drengur minn?"

"Ó, mamma, ég gæti það ekki; hér eru engir konungar."

"Satt er það, en samt ertu konungur og hefir konungsríki að stjórna."

"Ég gæti ekki barist við óvini mína."

"Þú hefðir þó getað barist við einn núna, en þú varst svoddan

hugleysingi; hugsaðu út í það. Þú veist, góði minn, að nafnið þitt, Rex, er latneskt orð, og þýðir konung og konungsríkið ert þú sjálfur. Þú getur verið góður konungur, vondur konungur, ónýtur konungur, eftir því, hvernig þú hegðar þér. Ef að þú hleypir óvinunum inn í ríkið, þá getur þú ekki búist við góðu. En ef að þú berst hraustlega við óvinina, og hrekur þá af höndum þér, þá hefir þú frið í ríki þínu, gerir alla þegna þína farsæla, og verður elskaður af öllum."

"Æ, mig langar til þess að vita hverjir óvinir mínir eru; ég skal þá lemja óspart í höfuð þeim."

"O, þú litli hreystimaður! Heldurðu að þér gagni það nokkuð að berja í höfuð þeim? Þú verður að losna við þá. En ef að þú vilt vita hverjir óvinir þínir eru, þá skal ég segja þér það. Í dag var kæruleysið hinn fyrsti óvinur þinn, svo kom reiðin og nú seinast rustaskapurinn, og þú hleyftir þeim inn í mitt konungsríkið þitt. Þegar þeir voru búnir að vera þar nokkra stund, þá lamdir þú í höfuð þeim, eins og þú kemst að orði, og bældust þeir þá niður um stundarsakir. En ég er hræddur um, að þeir komi aftur á morgun, nema þú hrekir þá algerlega út úr ríki þínu, og bjóðir inn þangað blíðlyndi, kærleika og kurteisi. Mér þykja allar líkur vera til þess, að konungurinn, sem þú varst að lesa um, hafi á drengjaárum sínum vandlega gefið gætur að því, hverjir það voru, sem tóku sér vald yfir honum, og þess vegna var hann svo vitur og hraustur þegar hann óx upp. Ef að hann hefði verið reiðigjarn og talað ljót orð, og verið rustalegur, þá hefði enginn viljað skrifa um hann, og enginn hefði sagt frá hreystiverkum hans og góðverkum. Það fer eftir því, hvernig drengirnir litlu eru, hvort þeir verða góðir menn eða vondir, þegar þeir vaxa upp, og ég er mjög hrædd um, að þú hljótir að heyja orustu hið innra með sjálfum þér, áður en þú losnar við óvini þessa. Farðu nú aftur og lestu um konunginn þinn, og reyndu að vaxa upp eins hraustur og hugrakkur og góður eins og hann var."

Sólskinssvipurinn var aftur kominn yfir andlit Rex litla, þegar móðir hans lauk ræðu sinni, og svo lagði hann hendurnar um hálsinn á henni og kvíslaði:

"Ég skal reyna að berjast við óvinina. Mér þykir vænt um að ég er konungur."



# YMISLEGT.

## Guð = Kristur.

Ef að Kristur væri sannarlegur guð, eins og gamla kverið okkar sagði; eins og klerkar rétttrúnaðarins kenna samkvæmt trúarlærdómum kyrkju sinnar; ef að hann, eins og grundvallarrit trúar þeirra hinna lútersku—Augsborgar-játningin—segir, væri jafn guði að aldri, að veru og eðli, svo að faðirinn væri hið sama og sonurinn, óaðgreinanlegur frá honum, — þá leiðir það af sjálfu sér, að það, sem sagt er um annan þeirra hlýtur að eiga við um hinn, veran er hin sama þó að nöfnin séu tvö. Þó að því breytt sé um nöfn þeirra og nafn Sonarins sett í stað Föðursins og Föðursins í stað Sonarins, þá hlýtur það að vera alveg hið sama; það ætti engin villa að geta komið út úr því; En nú skulum við sjá: "Guð gerir ekkert af sjálfum sér" (Jóh. 8. 28) og "Guð talar eins og Kristur kendi honum" (Jóh. 8. 28). "Kristur sendi mig" segir Guð (Jóh. 7. 28). Guð segir (Jóh. 5. 19.): "Faðirinn getur ekkert gert af sjálfum sér nema það, sem hann sér soninn gera." — Guð segir (Jóh. 10. 17.): "Ég læt líf mitt svo að ég taki það aftur." — "Enginn maður hefir nokkru sinni Krist séð" (Jóh. 1., 18.) "Kristur sendi sinn eingetinn Föður" (1 Jóh. 4. 9.) — "Sonurinn er mér meiri," segir guð (Jóh. 14. 28.) Guð hrópaði á krossinum: "Kristur! hví hefir þú yfirgefið mig"? "Guð var þar alla nóttina á bæn til Krists." (Lúk. 6. 12.) Guð sagði: "Snertu mig ekki, því enn þá er ég ekki uppstiginn til sonar míns." (Jóh. 20. 17.)

Ef að menn líta nú á málið, þá sjá menn, að hér rekur að endileysu einni, úr þessu verður ekkert annað en bull og vitleysa, en, ef að bókstafurinn á að vera innblásinn, ef að Kristur á að vera guð, þá hlýtur svona að fara. Þegar menn fara nokkuð að eiga við það, þá er örðugra, en sumir hyggja, að gera eina persónu úr tveimur. Þessi sönnunarmáti, sem hér er sýndur er mashematiskur; ef að x er = 4, þá eru 4 = x, en í reikningsfræði er það með öllu óhrekjandi.

## Blóðfórnar-kenningin.

Það er ein af aðalsetningum kyrkjunnar, að mennirnir verði reiknaðir réttlátir eingöngu fyrir verðleika eða forþénustu Jesú Krists, fyrir trúna á hans friðþægingu, fyrir trúna á það, að hann hafi afplánað syndir þeirra, án þess, að þeir verðskuldi nokkuð gott með verkum sínum, þótt þau séu góð. Ef að maðurinn ætlar að fara að treysta á góðverk sín, þá fer illa, þá þarf hann ekki að vænta sér neinnar friðþægingar. Þetta er hvað eftir annað tekið fram af

kyrkjunni, í játningarritum hennar, ræðum prestanna, í skáldskap kyrkjumannanna.

Þegar menn fara að gæta vel að þessu, þá kemur það nokkuð skrýtilega fyrir. Því er beinlínis haldið fram með þessu, að menn geti flutt réttlæti yfir á annan. Það er alveg samskonar og ef að einhver maður fremur glæp, deyðir mann t. d., en nú þekkir hann einhvern góðan mann, sem aldrei hefir glæp framið og segir: já, ég verð réttlættur fyrir þenna góða mann. Sé nú líkingin enn fullkomnari, ef að þessi góði maður hefir nú verið kærður fyrir þennan glæp, sem vondi maðurinn framdi, hefir verið dæmdur fyrir að hafa unnið hann og tekinn af lífi, þá segir hinn: nú er ég að fullu laus við þenna glæp, fyrst að þessi góði maður hefir liðið dauða fyrir hann og fyrir mig. Það er sama hverjum okkar var hegnt. Þetta sér hver maður, að er ekki einungis siðferðisspillandi, heldur hróplegt ranglæti. Mannfélagið gæti ekki staðist með þessu móti.

En nú skulum vér sýna fram á aðra enn skýrari hlið á þessu. Eins og menn geta tileinkað sér réttlæti annara eins, ættu menn að geta tileinkað sér eitt og annað t. d. gáfur, skáldskapargáfu, málaragáfu, tungumálagáfu, hernaðarlist, og ótal fleiri hæfileika. En getvér nú tileinkað oss t. d. skáldskapargáfu Shakespeares? Vér hugsum oss, að Shakspeare sé snillingur skáldskaparins, og það er ekkert meira að trúa því, að Shakspeare hafi úthelt gáfu sinni yfir allan heiminn til þess, að hún rinni inn í æðar og taugar og eðli og hugsanir hvers einasta manns, en að trúa því, að fanturinn réttlætist fyrir dauða gyðings eins fyrir nær 1900 árum síðan! En — nú kemur spurningin: verðum vér fyrir það skáld eins og Shakspeare? Getum vér allir orðið málarar eins og Raphael, eða herstjórar eins og Napóleon, eða tungumálafræðingar eins og Max Muller? Ég er hræddur um ekki!

En á nú þessi trú um réttlætinguna að bæta siðferðið? Hvernig í ósköpunum getur hún það? Kenningin sjálf er eyðileggjandi alla siðgæðishugmynd. Væri ekki betra að halda meira á lofti kenningunni um, að eins og maðurinn sáir, það muni hann uppskera? Væri það ekki betra, að kenna hinu unga fólki voru, að það verði að standa eður falla með verkum sínum, falla á hinum vondu verkum, án nokkurrar vonar um, að þau geti sloppið við réttláta hegningu, en standa fyrir hin góðu verk sín. Þetta mundi alveg bylta um siðgæðishugmyndinni hjá mönnum, en getur nokkur hugsað sér, að siðgæðishugmyndin yrði verri fyrir það? Ég skil það ekki. Þá væri numið burtu skálkaskjól það, sem þúsundir og milliónir hræsn-

ara, lygara, morðingja, þjófa og bófa hafa flúið undir, sem eftir æfi ataða í smán og svívirðingu, hafa dáið svo undur lukkulegir og sælir, treystandi því, að Kristur hafi borið allar þeirra syndir upp á krossinn og afplánað fyrir þær með blóði sínu.



## Heiðruðu kaupendur !

Þá er nú að eins eftir eitt (12.) númerið af þessu ári Dagsbrúnar, og munum vér láta það koma út seint í næsta mánuði.

Vér þykjumst vera nokkurn veginn vissir um, að kaupendur vorir yfir höfuð, — að sárfáum undanskildum ef til vill, — séu vel ánægðir með allan frágang og stefnu Dagsbrúnar, og er vel að svo er. En vinsamleg ummæli og hrós um blaðið er ekki alls kostar nægilegt til þess, að vér getum haldið blaðinu úti næsta ár ; kaupendurnir verða að sýna það í verkinu, að þeim sé ant um, að blaðið lifi og haldi áfram að koma út. Og það er einkum með þrennu móti að menn geta stutt að því : með því, að borgað sé skilvíslega, ekki síðar en fyrir áramót, það sem hver og einn skuldar blaðinu nú, — með því, að útvega því sem flesta nýja kaupendur (það kostar oft að eins góðan vilja og ofurlítið ómak) — og með þvi, að sem flestir borgi fyrirfram næsta árgang (1896), því að prentkostnað þurfum vér að borga ætíð jafnharðan og blaðið kemur út.

Kaupendur Dagsbrúnar ! Vinir vorir, menn og konur ! Látið nú sjá að þér kunnið að meta þessa viðleitni vora til að gefa yður gott og upplýsandi blað, — blað sem fylgir með straumi tímans og mentunarinnar, en er ekki sífeldlega að róta í draugahólum löngu liðinna alda hjátrúar og heimsku.

Ef kaupendur vorir fjölga svo, að vér sjáum oss það fært, munum vér stækka blaðið. Dagsbrún mun aldrei verða haldið úti sem peningalegu gróðafyrirtæki, hvorki fyrir söfnuð vorn né neina klíku. Vér erum meira en ánægðir, ef blaðið að eins borgar sig. En söfnuður vor hefir í of mörg horn að líta til þess, að geta lagt fram fé til útgáfu blaðsins, svo að nokkru nemi. — Með virðingu og von um góðar undirtektir.

ÚTGÁFUNEFNDIN.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.

Ritstjóri : MAGNÚS J. SKAPTASON.

648 William Ave.

Féhirðir og afgreiðslumaður : MAGNÚS PÉTURSSON.

S.-W. Corner Ross Ave. & Nena Str.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.